# Æfisaga

## Jóns Jónssonar Therkelsen

philologiæ, græcæ et latinæ

studiosi.



Samin

af

Biskupi *Steingrími Jónssyni.*



Kaupmannahöfn.
Prentut hiá *Hardvig Fridrek Popp.*

1825.

*Nec sicci sint oculi, amisso amico, nec fluant. lacrymandum est non plorandum — id agamus, ut jucunda fiat nobis amissorum recordatio.*

L. A. Seneca Epist. DXIII.

---

Í samarfa skiptunum eptir sál. biskup Dr. Finn Jónsson, um sumarit 1790, þá eg var nýkominn í Skálholt, sem amanuensis til biskups Dr. H. Finnssonar, sá eg fyrst *Jón Jónsson Therkelsen*; hann var þá lítilfiörligr, skarpleitr drengr; ecki man eg, at þá drægi neitt saman med ockur. Vid skóla-setníngu og uppsögn, 3 haust og vor 1791 til 1794, í Reykiavík, hafdi eg lítil kynni hans, eins og annara skólapillta, en veitti hönum loksins, því meiri eptirtekt, sem hann var talinn þeim betur gáfadr og einhver enn framfarafliótasti. Í visitatíuferd ádurnefnds biskups Dr. H. Finnssonar, sumarit 1794, um Mýra-Hnappadals- og Snæfells-Sýslur, giördist gódr þocki milli Therkelsens og mín; og sídast vid háskólann í Kaupmannahöfn, hvört eg var kominn 2 árum ádur enn hann, urdum vid hvör ödrum handgengnir, og áttum tídt tal um eldri og nýari lærdómsefni, samt ymislegt ockar födurlands ástandi vidkomandi.

þá hann var veikr á Fridrikshospitali, vitiadi eg hans yduglega; öndverdlega í sídustu legunni innti hann til þess vid mig, at eg skrifadi æfisögu sína, hvöriu eg í þat sinn eyddi, og svo sem hughreystandi hann, lét ummælt, at vid bádir kynnum lengi lifa, og hann yngri mér, at líkendum lengur. Fáum dögum ádur eg qvaddi hann, tilsetti konúngr, ad eg skylldi vera *lector theologiæ* og eístr kénnari vid Íslands latínuskóla. Therkelsen héldt þá tilbaka siúkdómr hans, en fyrirhugat var af Universitets- og skóladirectioninni, þegar hönum batnadi, at hann, ef ei samsumars, þá á næsta ári, tæki embætti vid sama skóla, sem kénnari í málfrædi, (*philologie*) og jafnvel yrdi skólans *rector*.

Af hér framtöldu má audveldlega skilia, bædi ord og anda í seinasta bréfi hans til mín, dat. 20 og 21 Julii 1805, og líka, hvat eg nú læt í liósi, at þat var mér kiær skyllda, strax á næsta ári, í Íslandi, at semia æfisögu hans, þótt prentun hennar, margra orsaka vegna, dregist hafi í næstlidin 20 ár. Svo skrifadi hann mér: "Kh. 1805 þann 21 Julii. Nu kém eg til adalefnisins, sem eg svo lauslega, þó í alvöru, nefndi einhvörntíma, ɔ: at þú færdir í rit uppvaxtar og úngdóms sögu mína, annat getur hún varla heitit; jeg sendi þér þá forsiglut sérilagi öll þau skýr-

teini, kraptar mínir og muníng (minni) leifa mér nú at *concipera*, fyrst á latínu, sidan á íslendsku, samt öll vidkomandi documenta. Hvat söguna siálfa áhrærir, vilda eg helst hún væri skrifut í líkum stíl og anda, sem B. Paulssonar af S. Pálssyni. Smiadra máttu ecki, en varlega skrifa, þar hlutadegendur lifa ɔ: á Breidabólstad, Odda &c. sérdeilis um Kálfhollts-málit, hvará þó mun ega at drepa lítit. Mitt Kaupinhafnar líf verdur lengst, og þad veitstu uppá þínar 10 fíngur, samt hvat af ættartölu þurfa þykir. Helst vildi eg, þú útlistadir náqvæmlega þann makalausa ördugleika, eg frá blautu barnsbeini átti vid at strída, i tilliti til nogen videnskabelig dannelse; at lesa, og lítit eitt at skrifa, var allt og sumt, sem náúngarnir tillétu, og þó, hvat tregt geck þat ecki med skriftina!

I ödru paqveti sendi eg þér medallíuna, sem er, eins og þu veitst, 40 Rbd. vyrdi. Kosti nú meira, at þryckia, hvat skal þá tilgiöra? —" Therkelsen hafdi þannig siálfr meira partinn á latínu, og nockut á íslendsku, undir egin nafni, uppteiknat á laus blöd þat, sem hér er frá hönum sagt á barndóms og uppvaxtar árum, allt þar til hann skrifadist út úr skóla. Sídan er æfisagan bygd á kunnugleika mínum og þeckíngu, líka vitnisburdum, skiölum, og ávísun annara trúverdugra

um lífshagi hans þareptir og endalikt, einkanligast þeirri dánarskrá, (necrolog) hvöria Etatsrád og Professor B. Thorlacius lét strax sama ár 1805, eptir hann á prent útgánga.*)

þat sem of eda van kynni hermt vera yfir höfut í æfisögunni, má tileignast fákunnáttu minni, en ecki ásetníngi.

*Kaupmannahöfn*, þann 8 April 1825.

---

*) Siá Kjöbenh. lærde Efterretn. for 1805. Necrolog pag. 509 f.

Jón Jónsson Therkelsen er fæddr í heim þenna, þann 23 December 1774, á Raudanesi í Mýra sýslu, á Íslandi. Fadir hans var Jón ýngri, sonr Þorkéls, Brandssonar, Þorkélssonar, (er 4 fedgar höfdu búit hvör eptir annann á Raudanesi), Erlendssonar, frá Kadalstödum*).

*) Kvinna Þorkéls Erlendssonar, og Módir Brands, var Helga Tómásdóttir, fra Borgarholti, Biarnasonar smids, Egilsonar; en kona þessa Biarna smids var Gudrún dóttir Brands á Snorrastöd-um, (er kalladr var Molda-Brandr af húsastarfi), bródur Marteins biskups í Skálholti, Einarssonar (Ölduhriggiarskálds) prests á Stadastad, Snorrasonar; medhiálp Síra Einars og módir Molda-Brands var Ingirídur Jónsdóttir, systir Stepháns biskups í Skálholti; seinni (adrir segia fyrri) kona Molda-Brands, og módir Gudrúnar, var Halla, dóttir Ólafs prests í Saurbæ á Hvalfiardarströnd, Kolbeinssonar;

Kvinna Þorkéls Brandssonar í Raudanesi var Margrét Snorradóttir; áttu þau hión

---

Kvinna Tómásar Biarnasonar, og módir Helgu, var Kristín, dóttir Síra Ásmundar í Miklaholti, Nicolássonar, Jónssonar smids i Öndverdarnesi, Audunarsonar; kvinna þessa Jóns og módir Nicolásar var Ingerídur Jónsdóttir fyrrnefnd Stepháns biskups systir, en sem seinna var á rádi med Síra Einari á Stadastad; kvinna Síra Ásmundar var Sigrídur dóttir Biarna prests í Hafursfiardarey, Gíslasonar.

Kvinna Brands Þorkélssónar, og módir Þorkéls var Ástrídur dóttir Jóns prests í Middala þíngum, Ormssonar prests á Breidabólstad á Skógaströnd, Narfasonar, Ormssonar bónda í Vík á Seltjarnarnesi, Jónssonar: kvinna sídst nefnds Orms bónda var Katrín Hallsdóttir, systir Síra Egils í Saurbæ i Eyafyrdi, og Solvegar seinni konu Þorleifs Grímssonar á Mödruvöllum; kvinna Narfa var Gudrún Magnúsdóttir, systir Halls, er qvad Hallsdrápu; kvinna Síra Orms var Steinun dóttir Hallkéls prests á Seltjarnarnesi, Stephánssonar prests í Laugardælum, Hallkélssonar, en módir Steinunnar, og fyrri kvinna Síra Hallkéls var Sigrídur dóttir Jóns prests í Bæarþíngum i Borgarfyrdi, Magnússonar prests, Jónssonar á Borg, Þórdarsonar ríka, Sigurdssonar; kvinna síd-

fiölda barna, þar á medal Brand, födur Teits á Stórakálfalæk, hvörs kvinna var Sigrídur Oddsdóttir, einnin fyrrnefndann Jón ýngra, er fyrst bió í Þverholtum, en seinast Raudanesi. Jón var þrígiptr, átti med sinni fyrstu konu einn son Þorkél, med þeirri annari eckert barn, sú þridia hét Ragneidur-systir nýnefndrar Sigrídar á Kálfalæk-dóttir Odds á Feriubacka Sveinssonar, og Vigdýsar Jónsdóttur. Ragneidur hafdi ádur verit gipt Magnúsi heitn: Biarnasyni á Tandraseli, og alit hönum nockur börn, af hvörium hér nafngreinast tvö, systkynin Biarni og Vigdýs. Einbirni Jóns og Ragneidar var *Jón*, sem seinna, þa hann kom til Kaupmannahafnar,

astnefnds Jóns Þórdarsonar var Ragnhildur, systir Síra Þórdar í Hítardal, Síra Jóns í Odda, og fl, dóttir Einars Þórólfssonar á Hofstödum, og Katrínar Haldórsdóttur ábóta á Helgafelli, Ormssonar; módir Síra Stephans var Valgérdur dóttir Gudmundar, bródur Stephans biskups í Skálholti, Jónssonar. Kona (sídari) Síra Jóns Ormssonar, og módir Ástrídar, var Sigrídur frá Skördum, Ólafsdóttir (adrir segia Egilsdóttir).

kéndi sig vid afa sinn, og tók vidurnefnit *Therkelsen.* Voru nefndir foreldrar hans vid efni í medallagi, en urdu fyrir stórskada á öllum eigum sínum innanstocks í bæarbruna, sem uppáféll seint í Junii mánudi árit 1774. Á næsta ári 1775, í Apríl-mánudi, druknadi fadirinn Jón Þorkélsson, ásamt syni sínum Þorkéli, i fiskiródri fyrir Mýrum; var Therkélsen þá hérum 4ra mánada gamall, og féck at erfdum eptir þá báda frammundir 200*rdla* virdi í lausafé, og jardarpart virdtann, seinna seldann, fyrir 67½ ríkisdal. Um uppfóstur sitt, á 4 fyrstu barndómsárum, í módurhúsum, qvadst Therkelsen eckert markverdt vita, nema, hvad kunnugt fólk og náúngar hans seinna sögdu hönum: ad hann þá hefdi verit þverlyndr, brádr, og óhlýdinn; og tvær yfirsiónir, er hönum siálfum voru í fersku minni, eins og þat straff, er þær höfdu bakad hönum. Hann var aleinn eptirskilinn í lokudu húsi módur sinnar, þar stód fyrir hönum ólæstr skápr, í hvörium voru heilmargar húslestra- og andaktar-bækur, bædi prentadar og skrifadar, hann tekur eina af

þeſsum skrifudu, miög gamla, og vída fúna; bókin var, eins og hann sídar feck at vita, Táraprefsan i liódum*); hann, barn á fiórda ári, óviti og óvanr at fara med bækur, rífur og tætir i sundur þeſsa skrædu; módir hanns kémur inn, sér rifrildin útum alt gólfit, tekur drenginn, og hýdir med vendi, eins og hann á þeim aldri gat borit, þared hún, auk skémdanna, áleit þetta tiltæki hans, sem vita þeſs, at hann mundi verda ódæll trúar- og gud-nídíngr, er hann hefdi svo illa og ósvífilega farit med þá fyrstu bók, er hönum kom í hendur, andlega bók, sem ecki einúngis innihéldi siálfs guds ord, heldur og svo vísadi þann rétta og einasta veg til eylífrar sáluhiálpar.

Annari barndóms syndinni, med sínu strafli, er hann frá þeſsu 4da aldursári ecki hafdi gleymt, var svo háttat: módir hans

*) C. E. Rachlovii threnodias, dan: Taare-perse, hefir þat merka skáld Gudmundr Bergþórsson snúit i liódmæli, en biskup Steinn Jónsson orkt útaf 28 sálma og útgéfit á Hólum árit 1719. —

hafdi streyngilega bannat hönum, at qvabba um mat eda dryck, þegar géstr ellegar nockr adkomandi af ödrum bæjum heyrdi til; en svo bar undir, at madr nockr, at nafni Þórdr, frá næsta bæ, svo at segia heimagángr hiá módur hans, kémur heim til hennar, einn dag, litlum tíma eptir dagmál, um þat leiti drengrinn vaknar; hún setur at veniu nockut fyrir Þórd, til at borda og drecka, hann drollar lengi yfir því, og uppiheldur henni med hrókarædum fram undir hádegi. Þegar drengrinn fær eckert allann þenna tíma, og qvelst af svengd, hugsar hann med sér, at þessi hvörsdags komumadr sé einginn géstr, sér muni þessvegna óhætt, at qvabba uppá módur sína; hann qvedur uppúr, og bidur hana, at géfa sér nockut af mat; hún brosir vid, og géfir honum nockut, en jafnsnart sem Þórdr er farinn, lætur drenginn fá snarpa strýkíngu fyrir þetta óleifda og ósidlega matarqvabb.

Þessi tvö dæmi géfa ei litla átillu fyrir, hvad hugsa megi um fóstur, og frædslu Therkelsens á þessum fyrstu barndóms árum.

Sitt 5ta aldurs ár taldi hann med þeim markverdu; þá giptist módir hans i þridia sinni Sigurdi Hrómundssyni, fátækum bónda, en gudhræddum, gódum og sérdeilis spaklyndum manni, sem héldt í tauini, og mýkti hennar brádlátara lunderni, og géck Therkelsen í besta födurs stad. Á þessu ári lærdi hann at lesa, var hönum, eins og hann sagdi, fyrst kénnt ad þeckia og nefna bædi skrifada og prentada stafi, at þylia upp utanbókar stafrofid, eins apturábak sem áfram, þar næst, at qveda at atqvædum, og taka saman svoleidis, at fyrsta atqvædi ordsins ítrekast eins opt og þess fylgiandi samstöfur, hve margar sem eru*), fór hönum svo fram þann eina vetr, at hann gat vidstödulaust lesit hvöria prentada bók, eins norrænu og ó-

---

*) Því er þessa hér gétit, at enir nýari barna uppfrædendur álita betri og audveldari til skilníngs annann máta fyrir börn at taka saman, nefnilega: einasta hvört atqvædi útaf fyrir sig, og svo sídast allt ordit í einu t. d. bók-staf-ir-bókstafir, ecki: bók-staf- bokstaf-ir-bókstafir.

bunditmúnkaletur, nema vöndustu, einkénnis nöfn; feck hann þá hrós af mörgum, hve efnilegr hann væri, einkum af sóknarprestinum*).

Í næstu 4 ár, átti hann góda æfi hiá módur sinni, hún vard hönum æ náttúrlegri, þegar framfarir hans juku henni og stiúpa hans ærna gledi; um vetrinn og vorit, þess 6ta aldursárs lét hún hann lesa hátt hiá sér alla biblíuna, bædi g. og n. testamentit, og lagfærdi lestur hans at því, sem hún kunni. Á 7da árinu lærdi hann alla Pontoppídans útskíríngu yfir Lutheri catechismum. Á 8da, og næstfylgiandi aldurs árum fýsti hann mjög at læra skrift; einginn kunni hana þá í húsinu, hálfbródir hans Biarni, var sá eini, er í barnæsku hafdi numit hana lítit eitt af födur sínum, en náttúradr med búsýslu, lagt sídan aldeilis fyrir ódal. Pappír, blek,

*) Þat var Thorkelsen í minni, at prestrinn, þá einusinni skáladr, med forneskiu svip badadra eptir taka: at annathvört yrdi drengr þessi miög skamlífr, ellegar stærri og frægari madr, enn sér hugqvæmdist.

penna, og alla tilsögn vantadi. Sú fyrsta siálfþenkta skrif - tilraun Therkelsens var þá, at minda bókstafi á óhreint kistulok, med vísifíngri eda tréspítu, vættum í hráka sínum; þar sem hann dró þau um, sást í hreint tréd, og mótadi fyrir þeim, at líkendum ófimlegu, stafamindum. Vardi þetta ei lengi, þar til hann hiá skrifandi nábúa-dreng féck nockra dropa af bleki, en mátti fyrir þá, ei án eptirtalna, opt midla hönum sídan nockru af mat sínum. Á reiki sudur vid sió fann hann um sama leiti siófuglsfiödur, er hann hafdi heyrt, at brúkut væri í penna, hlióp med hana heim til bródur síns Biarna, er med tálguknífi skar úr henni penna, svo vel, sem hann kunni. Nú var tvent fengit, vantadi hit þridia, nockut at skrifa á. Hann fór þá at pára á hreinar kistur, stafi, sillur óg slétta rúmstocka; en þetta ætladi ecki at verda hönum fyrir gódu, þvi nú styggist stiúpi hans vid hann, af þeim hugarburdi, at slíkt mætti ecki strafflaust lídast, þvi í einfeldni sinni héldt hann þetta ólæsilega pár væri ecki einleikit, og þeim mun háskaligra,

sem þat væri nærr fólki þar, hvar þat í húsunum ætti at vera bædi vakandi og sofandi; lángt tal og rádagiörd var haldit um þetta, þar til einn af heimilisfólkinu segir fyrstr sína meiníngu: at vid þefsu þurfi heitt vatn, kalt dugi ecki, med salti í; á hana er fallist, og allt párit med heitu saltvatni burtþvegit, en Therkelsen slapp hiá refsíngu. Nú var hann eins rádalaus, sem hugsandi um, hvad hann gjæti haft til at skrifa á, þar til at fyrir hönum vard hvítr og skininn hrofs-kiálki; hann reynir strax á hönum penna sinn, og þó illa tæki á, var kiálkinn, af hvörium jafnódum mátti útslétta, lengi eptir þetta hans einasta skrif-bók. Á þefsum 7da, 8da og 9da aldurs árum, tók hann at láta flióta í hendíngum, hvad módur hans stórum gladdi, er var af náttúrunni vel gáfut kona, en tíd og vani voru skuld í hennar hiátrú. Á því sídasttalda ári þótti og vænka hagr hans, þá um vetrinn 1783 – 4, var Þorkéll Sigurdsson á Hömrum, nettr skrifari, fenginn til, um réttann viku tíma, at kénna hönum reglulega at skrifa, sýndi hann hönum þá settlet-

urs og latínu handar stafi. Enn næsta vetr þar eptir, var Þorkéll at nýu fenginn, og kéndi hann hönum, at draga til fliótaskriftar, hvad þó ei varaði lengur enn 3 daga, því Þorkéli var annt um, at komast heim til sín aptur, og dó fáum dögum seinna.

Nú var í þat skiól fokit, módir hans géckst þá fyrir, þann sama vetr, at koma hönum til sýslumanns Gudmundar Kétilssonar í Svignaskardi, til at læra betur at skrifa, og líka at reikna; stód þá svo óheppilega á, at sýslumadurinn hafdi einga tíd at misſa frá embættis önnum bædi í Mýra- og Borgarfiardar sýslum*).

Hiá hönum lærdi Therkelsen samt sæmilega at skrifa, reikníngstöbluna, og (at því hann minnti) svo kalladar 4 species í heilli tölu.

Um þetta tímabil deydi stiúpi hans Sigurdr, enn módir hans héldt vid búi, med eldsta syni sínum Biarna. Eptir 5 vikna veru

---

*) Í Borgarfiardar-sýslu var hann um tíma settr valdsmadr.

í Svignaskardi, kom Therkelsen heim aptur og misti módur sína á næsta sumri. Eldsta hálfsystir hans Vigdýs tók þá vid búi med Biarna bródur sínum, en hún géck Therkelsen ecki í módurstad; ólst hann samt sídan upp hiá þeim, þar til hann var 14 vetra, og átti bágt í flestu; á þessum árum láu sálarkraptar hans í dái; eingin taladi um, at hann lærdi, nema sóknarprestrinn sagdist jafnan vilia taka hann, og vísa hönum þau fyrstu elementa í latínu, ef kýr sínar væru snembærar, en um þær mundir bar jafnan sú fyrsta þeirra á þorra*); eitt sinn gaf hann hönum Horsters historiu-ágrip, sem Therkelsen lærdi á fáum dögum, líka þat hebreska liódastafrof.

Lítit eitt skrifadi Therkelsen, þegar efnivid ecki brast, las einstökusinnum í biblíunni, og ödrum gudsorda-bókum, en var

*) Sóknarprestr var þá í Borgarþíngum Síra Fridrik Gudmundsson, madr allvel ad sér, en hladinn börnum og bláfátækr. Óhentugr kúatími er ecki litil vanheppni í búskap. Siá ísl. Lærd. L. Fél. Rit. 6 B. S. 41.

hafdr vid erfidi, svo mikit sem kraptar hans gátu afkastat; var hann þá þrátt bædi votr og kaldr, hafdi illann atbúnad, og optlega knappasta vidurværi, líkaminn tók því litlum framförum, sálin enn þá minni.

Árit 1787 1ta sunnudag eptir Trinitatis var hann*) af presti Síra Fridrik stadfestr í kristindóminum. Snemma á árinu 1789 um hávetrinn þreyngdi svo at hönum sultr og misjafnt atlæti, med vinnuhörku úti í hördum vedrum, at hann vék frá Raudanesi med systkyna sinna vitund og vilia, og fór fótgángandi útad Kálfalæk til brædrúngs síns Teits Brandssonar, er hafdi hans hálfa umbod, móts vid Biarna, undir höndum; kona Teits, sem ádur er sagt, var módursystir Therkelsens; hann bad þau taka sig,

*) Hét hann þá 14 vetra, ad íreiknudu hvörutveggiu fædingar og confirmatións árinu, jafnvel þó hann hefdi ei lifad nema ad eins 8 daga af því fyrra, en hérum 5 mánudi af því seinna, og væri réttilega sagt á 13da árinu. Annars er almennt í Íslandi at reikna aldurs ár sín eptir lifudum Jólanóttum.

þau gérdu þat, og álitu hann fyrir spælit, lítit vinnudrengs efni; hér hafdi hann nockut betra vidurværi enn á Raudanesi, en eins mikit, eda meira erfidi, og ei ætlast til annars, enn ef hönum yrdi komit í bóndastétt; bóndinn var hönum jafngédia-gódr, enn húsfreyan mislynd; hér var skrift ecki at nefna, og ei annann lestur enn húslestrinn; um lángar qvöldvökur skyldi eitthvad vera handa í milli, ullarvinna, ef ecki annat; kjæmi latínu lærdómr í tal, reiddist fólkit, og taladi at eins um straffit, sem hönum væri sameinat.

Sumarit 1790, þá prófastur Síra Halldór Finnsson í Hítardal vildi reisa til Lambastada á Seltiarnarnesi, og þadan til Skálholts, í arfaskipti eptir födur sinn, biskup sál. Doctor Finn, tók hann Therkelsen fyrir hestadreng; í þeirri ferd var einnin med prófastinum diákninn Biörn Benedictsson (sídar prestr í Hítardal). Þegar þeir voru á Lambastödum, vard dómkyrkiuprestrinn þar, Síra Gudmundr Þorgrímsson, áskynia um ætt og ástand hestadrengsins, rann hönum

þá í hug, ad fadir sinn sál: sýslumadr Þorgrímr, og vinr módur Therkelsens, hafdi bedit hann, at ega gódann þátt í, at þessi sonr hennar kjæmist til manns, og spurdi prófastinn, hvört piltrinn, sem ætti nockur efni siálfr, mundi hafa gáfur og lyst til at læra, því þá væri gudsþackaverk, at styrkia hann til lærdómsframa? Prófastrinn brást þá vel undir, og hét, at taka hann til kénslu næsta vetr, en Síra Gudmundr skyldi upp frá því hiálpa hönum áfram; létu þeir þá diáknann skila þessu til hans, og spyria hann, hvört hann vildi læra? Af ótta fyrir frændfólki sínu þordi Therkelsen þá varla, at láta vilia sinn í liósi, en diákninn Biörn stældi hann upp til þess, og at þiggia tilbodit med þöckum; var hann sídan um vetrinn — 1790 - 1 í Hítardal, og byriadi þar fyrst, meira enn 16 ára gamall, latínú-lærdóm, undir tilsögn optnefnds diákna Biörns Benedictssonar, en um haustit 1791 komst hann fyrir medalgaungu tédra sinna velunnara prófastsins og dómkyrkiu prestsins, i latínu-skólann í Reykiavík; hér dvaldi

hann 3 næstu vetur, þann eina á hálfri, hina báda á heilli ölmusu, fyrst undir kénslu *conrectoris* Páls Jacobssonar, 2 fyrri veturnar, en *rectoris* Gísla Þórdarsonar Thorlacii þann sídasta; leyndi sér þá ecki, hve vel hann var fallinn til bóknáms og lærdómsmenta. Í hans skóla-lausnar skrumlausa vitnisburdi, útgéfnum á latínu þann 30ta Maji 1794, telur *rector* medal annars: "at hann sidprúdr, einhver enn audsveipnasti og efnilegasti únglíngr, hafi gáfur hinar farsælustu, ástundan stakliga — latínskt skáld sé hann hid heppnasta — nockra latínska rithöfunda hafi hann at siálfsdádum, uppá egin hönd, og þad til gagns, yfirfarit — med öllum rétti mætti segia, at þessi piltr, utan skóla og innan, hefdi verit ánaudigr þjón bók-idnanna." Þann 18da Julii s. a. gaf biskupinn Dr. Hannes Finnsson hönum skriflegt leifi, at mega idka sig í, med vidkomandi sóknarprests vilia og vitund, at predika og catechisera opinberlega í kyrkiunni, þar sem hann uppihéldi sér innan Skálholts stiftis. Um þetta leiti var Therkelsen á lausum kyla, þar

til sami biskup Dr. Hannes tók hann, og hafdi med sér, fyrir skrifara, auk þénara síns, á yfirferd sinni — er varadi frá 15da Augusti til 12ta Sept. þ. á.—um Mýra-Hnappadals- og Snæfells-Sýslur. Strax þar eptir þann 15da sídartalins mánadar, var hann af optnefndum biskupi kalladr til, at vera eleemosynarius eda diákni *) á Breidabólstad í Flíótshlíd; hér hafdi hann undir hendi, nockrar bækur til ad lesa, frá Reykiavíkur latínu skóla bókasafni, og orsakadist sídar nockr ágreiníngr af drætti á at skila þeim. Eptir eins, ecki fulls, árs veru á Breidabólstad, sókti Therkelsen, fyrir áeggian prófasts Síra Gísla Þórarinssonar, um, ad fá diáknabraudit at Odda, í von at þar væri betri lærdómsstadr, hvad hönum var lént med nýrri köllun af biskupi Dr. Hannesi, þ. 5 Augusti 1795, ítrekadri af biskupi Geir Vídalín, þ. 30 Sept. 1797. — Hér þénti hann í

*) Diákninn átti at nióta frí uppheldis o. s. f. eptir Konúngl. For. 29 Maji 1744, og biskupanna í Íslandi Instruction 1 Julii 1747 §. 39. samanb. vid Cancellíebréf 15 Aug. 1795.

full 5 ár, géck eptir landsvana, at allri vinnu, æfdi sig í at predika, catechisera, og kénna únglíngum, og jafnframt lét sér ecki bækur úr hendi. Einhvörntíma seint á þefsum árum heitfesti hann sér — eins og sídar vard hliódbært — dóttur prestsins Síra Gudmundar Bergssonar í Kálfhollti, en upp var því brugdit milli þeirra seinna, þá hann var at vist í Reykiavík, en hún í Nesi vid Seltiörn.

Med kóngsbrefi þann 4[da] October 1799 voru diáknans í Odda-eins og þefs á Breidabólstad-uppheldis peníngar lagdir til handlæknisins í Árness-Rángárvalla-Vestmanneya og vestari Skaptafells-Sýslum: Therkelsen var þá fyrtr sínu frýa uppheldi, svo um vorit 1800 vék hann burt frá Odda, og tók vist hiá höndlunarmanni Árna Jónssyni í Reykiavík, hvar hann í næstu 2 Ár var vid, at kénna börnum hans og fleiri þar í kaupstadnum, græddi hann þá lítit eitt af peníngum.

Af ómæddri lyst til bókydna tók hann nú fyrir sig*), at vilia sigla til háskólans í

*) Svo sagdi Therkelsen: ad handlæknir Hr. Sv. Paulsson hefdi verit sá eini, sem hefdi hvatt

Kaupmannahöfn, og ritadi fyrifram þann 17[da] Julii 1802 audmiúkt bónarbréf til konúngs um, at fá at giöf, svo lengi hann, sem student kynni verda vid háskólann, árliga 25 Rbd. 48 Sk., eda þá í einu lagi 100 Rbd, þegar hann fyrst kjæmi þángat; bar hann fyrir sig í því bréfi, ad án hans sakar, og án nockurs endurgialds, hefdi kóngi þóknast, ad géfa burt braud hans til Sudurlandsins handlæknínga stiptunar, og á 3[ur] sídustu árum hefdi hann verit at sækia um embættis frama hér í landi, en ecki fengit neina áheyrslu. Biskupinn Hra G. Vidalín taldi, í uppáskrift sinni þann 13[da] Sept. s. á. þessu sídasta til afsökunar, at svo hefdi jafnan ástadit, at eldri og verdugari embættismenn hefdu ordit at gánga fyrir, og mældi fram med bæn hans, svosem þess, er væri bláfátækr, en hefdi bestu gáfur, þad konúnglega Cancellie hefdi lika bætt hinum diáknanum frá Breidabólstad, hans missir, med jafnvægu braudi í Hítardal.

sig, en ecki latt til þeirrar ferdar, og taldi þat nærgætins vinar merki.

Therkelsen reisti so til Kaupmannahafnar um sumarit, og kom þángat 31ta Augusti 1802. Hérum 5 vikum seinna lagdist hann veikr í mislínga sótt, og var fluttr útá Fridrikshospítal þann 29 Septembris; fyrir kappsmuna skuld fór hann hédan aptur, þó hönum væri ecki fullbatnat, og stód þann 26 Octobr. ed fyrsta lærdóms próf. (examen artium) med þeim adalvitnisburdi: hrósverdr ödrum fremur, (laudabilis præ cæteris *). Vard hann þá einn í tölu enna fáu, sem af þeim, er þetta haust tóku examen artium, voru opinberlega innkalladir. Var hönum þá sem stúdent vid háskólann, veitt strax klaustur (7 Nov.) og regéntz (1 Nov.).

---

*) Í gudfrædi, historiu, landafrædi og latínumáli hvarí hann auk annars út þýddi Livius í stad hebresku, féck hann þann vitnisburd: hrósverdr ödrum fremur (laudabilis præ cæteris), en í grisku og einfaldri stiörnufrædi (astronomia sphærica) — hvöria hann um sinn legutíma á hospítalinu, numdi mestmegnis med lítilli tilsögn þáverandi studiosi Steingríms Jónssonar, hrósverdr, laudabilis.

Um vetriun heyrir hann, at ádur umgetit bónarbréf sitt til kóngs féck einga áheyrslu; hann reyndi þá munnlega at bera fram fátæktar ástand sitt fyrir mikilsmegnandi mann nockurn í enni þá verandi Universitets og skóla Commission, til at vita hvört sér mundi duga, at leita til hennar um nockurn penínga-styrk, en hiá þeim-hans sídar reynda stóra Mæcenas, var þessi fyrsta adkoma svo þurrleg, at hönum gafst eingin von um adstod. Í millitíd héllt hann áfram sínum lærdómsydnum hit kappsamlegasta, tók examen philologicum þ. 5 April 1803, og féck í þar tilheyrandi lærdómsgreinum, latínu, grisku, og sagnafrædi, eptir kénslu Professoranna J. Badeus, B. Thorlacius's og J. Kjerulfs þann samhlióda atqvæda vitnisburd: hrósverdr ödrum fremur.

Nockru sídar tiáir hann skriflega fyrir því konúnglega Rentukammeri þær sér brugdnu vonir, sitt vanefna ástand, en uudir eins lærdóms framfarir, og bidur þad ásiárr um penínga styrk, svo hann giæti framhaldit sínum bókydnum vid háskólann, og neydist

ei til, at hverfa aptur til Íslands vid hálfbúit; feck hann þá gott svar þann 24 s. m., at hönum af kammersins fátækra siód (fattigbörse) væru í þad einasta skipti veittir at giöf 30 Rdlr.

Ennú á sama ári, þann 4da Octobris útstód hann examen philosophicum, heidradr í serhvörri þess lærdómsgrein*), med samstemmandi atqvæda vitnisburdi: hrósverdr ödrum fremur.

Ecki var Therkelsen midur at sér i gudvísi enn málfrædi; en því valdi hann hérreptir, at hann sagdi, heldur þessa enn hina, fyrir sína adalydn, at prestsembætti mundi verda sér erfidara, þared hann óhraustr fyrir brjósti, hefdi bædi styrda og lága raust.

---

*) nefnilega: skilníngar og giördar heimsspeki (philosophia theoretica et practica) náttúrufrædi (physica) lægri og hærri mælíngarfrædi (mathesi inferiori et superiori); höfdu í þessum greinum verit hans lærimeistarar: Professórarnir B. Risbrigh, Gamborg, Th. Bugge, J. Völdike og J. Wolf.

Hann sókti þá strax í sama mánudi um, at komast inní seminarii poedagogici philologiska classe; mátti hann þá enn at nýu sýna merki lærdóms síns, med at svara skriflega uppá fyrilögd spursmál, og var at því búnu, inntekinn i þat umsókta pláts i tédu seminario.

Vegna gáfna sinna, lærdóms og dugnadar, naut hann uppfrá þessu stödugrar hylli og náqvæmrar adstodar hiá seminarii director, og var af nockrum hærri stands ríkum mönnum kiörinn til at kénna sonum þeirra um vissa tíma, líka feinginn til lærdra ritgiörda, fyrir gódann betaling, vid hvad alt hann nu loksins var ordinn qvídalaus fyrir lífs uppheldi sínu.

Í seminario heyrdi hann alt til þess i Martii manudi 1805 med óþreytandi námfýsi, stödugustu eptirtekt og stærstu framförum, kénníngar Prófessoranna: Etatsráds B. Thorlacius's i grisku og latínu máli, Th. Brúns i frönsku og ensku, L. C. Sanders í þýsku, pædagogík, didactík og declamatión, og J. Kjerulfs í dönsku.

Auk þeirra tímasettu daglegu æfínga í hérgreindum vísendum, samantók hann nu margar smá ritgiördir; med einni þeirra svaradi hann uppá þat vid háskólann árit 1804 framsetta spursmál i málfrædi, og vann med heidri þau fyrirheitnu verdlaun*) má hér þó géta þess, at hann var leingi veikr um vetrinn 1803–4, og um vorit vard hann svo yfirfallinn, at þann 28 Maji var hann fluttr út á Fridrikshospítal, lá þar þó ei nema rúma viku i þad sinn, eyrdi ecki, og fór heim til sín, en var samt lengi ófrískr eptir.

*) Eptir konúnglegri resolution 17 Maji 1791 eru árlega vid kaupmannahafnar háskóla tilætladir 8 verdlauna peníngar af gulli (medalliur, hvör 40 rdl. virdi) fyrir þær bestu ritgiördir embættislausra Candidata, í þessum 8 af vidkomandi Professorum fyrirsettu vísenda efnum: gudvísi, lögfrædi, læknis-konst, skilníngar og giördar heimsspeki, hærri og lægri mælíngarfrædi, málfrædi, sagnafrædi, og þeim fögru vísendum. Ritgiördin skal vera innsend til rector magnificus innann 1ta December, en koma undir mat enna sömu Professora. Sú philologiska, eda málfrædis ritgiörd, skal jafnan vera samin á látínu.

Snemma i Martio 1805 þvíngadi hann mikit brióstveiki med kiöltur-hósta, ogundra hæsi, svo hann seint í mánadinum sókti um, at mega komast enn einusinni inn á hospítalit, en sídla dags þ. 31ta s. m. féck afsvar um þat, þared sá doctor-sveinn, sem eins og vani er til, fyrifram var sendr, til at grenslast eptir siúkdóms edli hans, qvad þat minna og lángvinnara, enn hospítals-veru tilgángi sætti. Therkelsen lét þá bera ord af ástandi sínu til Profefsor Etatsrád B. Thorlacius's, hvöred hans vegna kom at máli, þarum vid seminarii directórinn Profefsor sídar Conferentsrád Dr. Moldenhawer; gerdi sá sídst nefndi þá svo brádann og öflgann bug at málstad hans, at þat sama qvöld var Therkelsen sóktr frá hospítalinu, og í þat inntekinn. Dr. Moldenhawer lét undir eins skila til hans, at hvörs helst hann þarfnadist, skyldi hann leita til sín. Siálfr kom hann til hans nockrum sinnum þareptir á hospítalit, og hafdi bedit þann nafnfræga læknir Callisen, at vitia hans þángat ödruhvöriu, enda feingit siálfann Universitetets Patrón

Hertogann af Augustenborg til at leggia gott ord fyrir hann hiá læknurum; hans staklegi velunnari Prófefsor og Etatsrád B. Thorlacius gladdi hann þá og tídt med sinni nærveru á hospítalinu.

Therkélsen lá hér veikr í fulla fióra mánudi, þá læknarar gengu daglega til hans, og fyriskrifudu medöl, hvör hann brúkadi; íslendskra heidargrasa graut, sem er í miklu afhaldi fyrir sinn holla og nærandi krapt, féck hann daglega, hérum hálfsmánadar tíma undir þad seinasta, frá Justits- sídar Etatsrád G. Thorkelín, hvad allt kom fyrir eitt. Siúkdómrinn, sem var megn brióstveiki og megrusótt, gékk i þá fyrstu þriá manudi ei miög hardt at hönum, svo von var heldur til batnadar; hann las þá einnin í rúmi sínu bækur med miklu kappi, skrifadi sendibréf, teiknadi upp margt sér til minnis, og enda giördi samansafn til ýmsra vigtugra ritlínga, hvör flest minnisblöd og ritgiörda efni hann þó seinast lét brenna, þegar hann sá, at til eins mundi draga fyrir sér. Seinast i Juniimánudi þýngdi hönum svo, at dró af kröpt-

um hans og fiöri smámsaman, alt til 20ta næstkomandi Julii mánadar.

Þann 17da s. m., eda 14 dögum fyrir sitt andlát, hafdi hann giört sitt testamenti, hvarí hann skeinkti bækur sínar og eginhaudarrit til latínu skólans í Íslandi. Um veikindi sín, og þessa testamentisgiörd skrifadi hann til vinar síns, þáverandi Lectors Steingríms Jónssonar í Íslandi, þann 20 Julii soleidis: "Minn vin! snemma er bréf þetta byriat, áqvardat at sendast med póstskipinu, og þó máské ecki ofsnemma, til at géta fullendast. Sálar og líkams kraptar þverra, sérílagi eru þeir seinni nu hreint á förum, svo eg býst hvörn dag vid dauda mínum; mitt testamenti hefi eg alt giört, og þarí skeinkt allar mínar gagnsbækur og manuscripta til þess íslendska latínuskóla, útgiöra þær hérum 300 Nre, og mættu þær setiast í einn afsídis skáp, og skrifast máské á hurdina: Donum Therkelsen*) ödrum til uppörfunar, at breyta hér-

*) Therkelsens bækur eru at sömu afsídis í opnum skáp medal skólabóka-safnsins á Bessa-

eptir, ecki mér til hrófs. Registur yfir þær fylgir med i enu stærra bréfi, eptir því máttu gánga, og vanti nockut, er ádgángrinn hiá B. Thorarensen*), sem stendur fyrir bókanna emballering og færslu um bord."

Professor og Etatsrád B. Thorlacius hafdi Therkelsen bedit, at vera exsecutorem síns testamentis, líka at standa fyrir útför sinni, til hvörrar kostnadar hönum skyldu afhendast 60 Rd., en fyrir þat, sem þeim kynni afgángs verda, og þar til fyrir andvyrdi fatnadarins, er seldr yrdi, áqvad hann, at skyldu kaupast gódir latínskir rithöfundar, skólanum, auk ádurnefndra bóka, og svo til eignar**). Eptir þann 20ta Julii þyrmdi yfir hann, svo at upp þadan, og allt til þess 27da

stödum; einginn regluligr bókaskápr hefir þar at undanförnu fengist innréttadr, og þat brúkada pláts er svo þraungt, at skáp med hurd, hefir ei ordit vidkomit, en vænta ma, at þessi testators vidurqvæmilega ósk verdi sídar uppfyld.

*) hann er nu annar assessor í þeim konúngliga landsyfirrétti á Islandi.

**) þessir útfarar kostnadar afgángs- og fataverdspeníngar urdu 40 Rd. 50 sk. eptir því sem

s. m. hafdi hann lítinn uppisetu mátt, þó skrifadi hann þann 21[ta] s. m. lángann póst af brefinu, — sem um er getit í formálanum — til vinar síns Lector St. Jónssonar, áhrærandi ritgiörd æfisögunnar, og hönum í því skyni ánafnada gullmedalliu, og endadi brefit, en med siáanlega óstyrkvari hendi - þann 25[ta] s. m.*). Frá þeim 27[da] til þefs 30[ta] Júlii gat hann varla talat, en samt héldt hann óskértri ræenu fram í andlátit, sem skédi nóttina millum þefs 30[ta] og 31[ta] s. m.

---

- Etatsrád B. Thorlacius d. 14 Junii 1806 skrifadi Lect. Steingrími; tilnefndi þessi, ári sídar þann 30[ta] Martii, eptir hins ósk nockra latínska authores, er innkaupast mættu fyrir téda peninga, hvaruppá innkom til Stiptisins Universitets og Skóla Directionarinnar svar dat. 16 Julii 1808: at þeir tilteknu authores skyldu útvegast, og á sínum tíma til skólans innsendast.

*) "minn (skrifar hann) vaxandi veikleiki og handa skiálfti, tillætur mér ecki at skrifa framar, enda þarf nú ecki þetta ordlengia, þú sér hvat í þyckvara brefinu er, og í hvöriu skyni eg mun hafa sendt þat. Lifdu vel!

endat þann 25 Julii 1805

þinn elskandi vin
J. Therkelsen.

Útför hans lét Etatsrád B. Thorlacius þareptir giöra hina veglegustu, og fylgdu líki hans til grafar í Trinitatis kyrkiugardi Conferentzrád Dr. Moldenhawer, allir Seminariets Professórar, Etatsrád Thorkelin, og mikill fiöldi af Stúdentum.

Therkelsen var á allann vöxt med minni mönnum, útlimasmár, jafnbolr, og nockut herdalotinn; andlitit var skapat kríngluleitt, ecki ólíflegt, en vid vaxandi holdleysi dró úr kinnunum, svo þat vard nockut nidurdregit, og fölleitt; hárslitr allr döckr; ennit ecki stórt; nefit vidhátt og þunnt fram; augun gráleit, stödug og hin skarplegustu; kinnbeinin lágu eigi hátt; munnurinn og hakan sátu vel; svipr hans var lítill, og þó alvarlegr; framgánga óálitleg, og styrd, en þó stillileg. Gáfur hans at næmi og skilníng voru afbragd; þetta tvent jafnvalit og sameinat, var hönum svo gefit, at ei mátti siá hvört af ödru bar; hann bædi numdi fliótt, og kunni utanat, ei einasta vers og heila flocka af liódmælum, heldur og lángar málsgreinir og sagnaþætti ordrétta, einkanlega

í sínu módurmáli og látínu; varla mundi fyrir hann koma svo flókin grein, at hann ei, jafnsnart, eda eptir litla umþeynkíngu, fyndi greidda hennar meiníngu og samanheingi. Svo var hann minnugr, at frá flestu því, sem hann hafdi heyrt, eda lesit, med nockurri eptirtekt, tilburdum öllum og atvikum, er hann siálfr hafdi séd, eda verit vidridinn, úr því hann kom til vits og ára, kunni hann at segia, eins og þad hefdi nýlega skéd; vottr uppá minni hans eru og ádurtalin dæmi, enda frá hans 4da og 5ta barnæsku árum *).

*) Eitt var þat: hann qvadst glögt muna fiölmenna veitslu á giptíngardegi módur sinnar, þá hann var á 5ta árinu, og hvörnin þá tilgéck; medal annars hefdi sóknarprestrinn í þat sinni, ad álidinni veitslunni giörst ölvadr og óordvar, þar til utansóknar bóndi nockurr uppúr hópnum saung þad 11ta Vers ur 10da Passíusálmi Síra Hallgríms Péturssonar: "þú Guds kennimann þeynk um þad &c." þycknadi þá í presti, hafdi eckert ad bregda hinum um, en sagdist þeckia róminn hans, (bóndinn var blestr í máli) rauk út og kom ei inn aptur þat eptir var veitslunnar, en var á reiki úti einnana, eda med einstaka kunníngia sínum.

Svo var hönum ordit sýnt um, á seinustu árum sínum, at lesa bækur, at hann á litlum tíma, jafnvel þó stórar væru, hafdi yfirfarit þeirra innihald, þekkti þeirra gyldi, og mundi þegar ena markverdustu stadi. Eptirfylgiandi vitnisburd hefir hinn hálærdi Professor og Etatsrád B. Thorlacius géfit um gáfur hans og lærdóms framfarir*).

"Öll hans verk í þessum lærdómsskóla (seminario pædagogico) báru sérleg merki fulltída skilníngs, stadfestu, og egin eptirþánka; í þeim lærdu túngumálum nádi hann um hálfs annars árs tíma, ádurenn hann lagdist, ferdugleika óveniulegum á vorum dögum. Griska bók var hönum næstum því eins hægt at lesa, sem danska. Hans kunnátta í latínu máli var svo þeckt, at hann var enda feinginn til, at snúa á latínu skrifum, sem áunnu hrós í útlöndum. Árit 1804 svaradi hann uppá háskólans verdlauna spursmál úr latínskum fornfrædum, med slíkri

*) *Siá* Kiöbenh. lærde Efterretninger for 1805. Necrolog p. 509 f.

náqvæmni og útfærslu, at gullmedallían var hönum tileinkut. Þetta rit, og ýmisleg önnur af hönum, svosem *Seminarii alumnus*, samantekin skrif, sérdeilis tvö um skéliadóm Gryckia (*ostracismus*) eru samin med svo grundadri lærdóms greind, stórri þeckingu á efninu, náqvæmri adgiætni rithöfunda, og í svo gódu máli, at þau, ef á prent kiæmu, mundu verda dánskra lærdómslistum til sóma. Einnin í þeim 3 ýngri túngumálum, sem hönum voru öldúngis ókunnug, ádurenn hann kom í *Seminariet*, færdi hann sér, med svo heppilegri ástundan i nyt enna verdugu kjennenda tilsögn, at Meiners, Barthelemýs, Fergusons og þvílíkra bækur, á siálfri sóttarsænginni voru hans dægrastytting. Þá 4 seinustu mánudi var hann á Fridrikshospitali, og hafdi ennú í 3 af þeim, nógann sálar styrkleika til þess med bóklestri, at undirbúa nýtt rit í griskum fornfrædum. Homerum, Zenophon, Athenæum, og fl. yfirfór hann í rúmi sínu, med pennann í hendinni, og þegar hann

vard þreyttr á þeim, las hann til skiptis nýari bækur."

Hann var vel hagmæltr i sínu módurmáli, og gott skáld í latínu; til dæmis, vil eg hér nedanundir innfæra latínsk vers*), hvör hann án alls studníngs af bókum i seinustu legunni á hospítalinu teiknat hafdi med nockurri fyrisögn, á laust blad; til vorkunar má vyrdast, þótt feil finnist i þeim, giördum fríhendis i þeim kríngumstædum; lét hann med versum þeim, at skilnadi, þann 20 Maji 1805, qvaddann vin sinn Lector Steingrím Jónsson, er þá var ferdbúinn til Íslands

---

*) *Hoc erat in fatis? — nimium divelleris a me*
*Heu! subito! Patriæ flos, amor atqve decus!*
*Te fateor, nunqvam sum non expertus amicum;*
*Feci multa tuis sedulus auspiciis!*
*Inconcussa diu inter nos concordia mansit*
*Qvalis in ingenuis, debet habere locum.*
*Non discursus amicitiam contrarius etsi*
*Infregit nostram, sed magis auxit eam.*
*Noster enim sermo, nunqvam contentio, rixa,*
*Nec fere verborum ventus inanis erat.*
*Utilitas horum tota est: clamor æthera rumpit;*

lýsa þau ei einúngis Therkelsens lipru skáldskapar gáfu í latínu máli, helldur og líka hvará vinátta bygdist med þessum mönnum. Yfir liódmæli hans i módurmáli hefi eg ecki komist. Hann var addáanlega fliótr at semia og skrásetia lærdómsefni þau, er hann tók fyrir sig, og brúkadi einfaldann, liósann, og lidugann stýlsmáta, en gat líka, þegar hann villdi þad vidhafa, látid hönum bregda til brota, þýngdar, og vidhafnar. At lunderni var hann einþyckr, og nockut brádr, stuttr og bitr i svörum, þá svo bar undir, og þótti

---

*Certator cogitur, raucus abire domum.*
*Longe alia ratione fuit conversio nostra;*
*Semper ego potui doctior ire domum.*
*Finis erat nostri discursus omnibus horis,*
*Qvomodo qvisqve hominum vera videre qveat.*
*Ultima commemorem: qvam solabare jacentem!*
*Alloqvio morbi est pars mihi demta tuo!*
*Omnibus his uno privor spoliorqve momento;*
*Sic nerunt Parcæ tristia fata mihi.*
*Ergo vade, vale, felix! mea sola voluptas,*
*Frater, amicus, amor, deliciæqve meæ.*
*Cognita si datur his in terris ora videre*
*Illo qvam multum tempore lætus ero!*

þeim, er ei komust inná hann, vera hvörsdaglega óvidfeldinn *), mátti segia, at hin seinustu 3 missuri, dægrum saman væri fyrir almenníngi lokad kamersi hans, þótt inni væri; a röckurtímum lét hann helst greidann adgáng kunníngium sínum, eda þó heldur kom til þeirra, var þá skémtinn, og vakti ýmisleg vidrædu efni. Skömmu ádur enn hann sigldi frá Íslandi, var farit at koma qvis á, at hönum þætti gott brennuvín, en i Kaupmannahöfn bar ecki á því hit minnsta; hann lifdi þar sparsamlega at mat, klædnadi, og ödrum atbúnadi, géck

*) Giarnast eru 2 og 2 stúdentar saman i Kamersum á Regentzi; bindst þar opt med þeim gódr kunníngskapr og vinátta. En med Therkelsen voru framanaf, þartil hann seinna, eins og fleiri af Seminaristum, feck þad léni, at vera einn um verelsi, ecki fáir legunautar, sem allir villdu fra hönum; má samt óhætt segia, at orsök til þess, framar enn styrdt gédslag, var regluföst kappsamasta bókydn hans, sem illa eyrdi öllum hindrunum af samveru, skvaldri, skrafi, umrás og heimsóknum annara.

alldrei út óþörfum, var frásneiddr allskyns tíma og peníngum eydandi leikium. Ástundan hans og kappsemi vid verk sín og skriftir — er hann hafdi allt tímasett *) — var frábær, sat hann þrátt vid þau lángt fram á nætur, og vaknadi til þeirra snemma á morgna; órækann vott hans miklu ástundunar, ei sídr fliótlætis og vandyrkni vid skriftir og bókmentir má telia, þau eginhandar- og sumpart uppruna-rit, sem hann skrifadi i Kaupmannahöfn, og lét vandlega innbinda; eru þau hin sídustu 10 bindi þeirra

*) Svo var hann reglubundinn med tíd sina vid háskólann, at hann nidurradadi þeim tímum, er hann dagliga brúkadi til opinberlega at heyra, uppteikna, yfirfara sídan heima, og hreinskrifa fyrilestra, gegnumlesa i tómi af Bibliothekum yduglega lánadar bækur, og loks til ad kénna ödrum, líka setti hann sér fyrir vifs verk og ritgjördir á dögum og vikum þeim, er veniulega frýar géfast frá opinberum lærdómsydnum; seinasta vetrinn vissi eg til, ad hann i Janúario skrifadi sendibref þau, er hann ætladi til, at um vorit skylldu sendast til Íslands.

500 bóka *), hvöriar hann testamenterad til latínuskólans á Bessastödum, og sem þar eru fyriliggiandi.

---

*) Þefsi 10 bindi eru:

1. 2. *Theoretisk philosophie* samanskrifut árit 1802 og 3. eptir Próf. Riisbrighs fyrilestrum nefnil: *Logik, Ontologie, Erfarings Sielelære, Fornuftens Theologie og Philosophiens Historie,* 2 Voll. i 4to, hérum 90 arkir.

3. Praktisk Philosophie, samantekin eptir ymsra universitetsins lærimeistara fyrilestrum, helst Gamborgs, Treschows og Sanders; þarí: *Moralens Grundsætninger. Thelematologie. Ethik. Naturret. Politik. Pædagogik. den philosophiske Moral.* Vol. I i 4to, yfir 50 arkir.

4. 5. *Mathematiske collegier* eptir Profess. Volfs og Wöldikes fyrilestrum nl: *Arithmetik. Plangeometrie. Algebra. Stereometrie. Trigonometrie.* 2 Voll. i 4to, hérum 74 arkir.

6. Grísk collegia yfir ymsa authores: t. d. Lycurgs áklögun á móti Leocrates, og Pindars Olympisku saungvar eptir Etatsrád B. Thorlacius opinberu og heimuglegu fyrilestrum um vetrinn 1802—3, líka útlegging og nótur yfir þat drama: Ajax mastigophoros. I Vol. i 4to, hérum 40 arkir.

7. 8. *Antiqvarisk excerpta:* Tomi 2 i 4to; sá fyrri innihelldur *archæologiam de numismatibus et codicibus in specie græcis et latinis., archæologiam artium.* yfir 20 arkir.
I þeim seinna parti inniheldst:
a. b. *Therkelsens Svar* uppá 2 spúrsmál hönum fyrilögd i dönsku og latínu, ádur hann var inntekinn i Seminariet nl.: *hvilke ere de fornemste Opmuntringsgrunde til at vedblive i fyrig*

Hann elskadi sitt födurland, og sýndi sig því þacklátann med testamentisgjördinni;

---

*Virksomhed under Besværligheder og Hindringer? Qvænam sunt præcipua præsidia, quibus cum a natura, tum ab arte instructus esse debet idoneus et doctus veterum scriptorum interpres?* c. *Ejusdem commentationum philologicarum specimen primum, continens pauca qvædam collectanea, de licentia poëtica, inprimis Homeri.* d. *Ejusdem commentatio de religione græcorum Homerica theoretica et practica.* e. *Ejusdem commentatio de ostracismo Atheniensium* cfr. p. 33. f. *Ejusdem notæ criticæ in varias commilitonum seminarii pædagogici dissertatiunculas, 7 latine, et 2 danice conscriptæ.* g. *Ejusd. dansk Oversættelse af Lucians fra Samosata Tyrannoctonos eller Kongemorderen.* h. *Ejusd. frie Oversættelse af Julius Capitolinus om M. Aur. Antoninus Philosophus*, allt yfir 40 arkir.

9. *Latinsk collegia*, nefnil:
   a. *Vitæ nonnullorum auctorum latinorum.*
   b. *Theoria stili latini.*
   c. *Præsidia et fata latinitatis elegantioris.* 1 Vol. i 4to.
10. Collegium eptir Profess. Bugges útlistun yfir seinni partinn af Hauchs experimental physik, 1 Vol. i 4to, herum 22 arkir; öll þessi 10 bindi eru þétt skrifut.

Hér vid má bæta upprunа riti hans, er hann samdi 1804 *de pontificatus maximi apud Romanos historia.* Hafdi Facultetid árinu ádur framsett þetta efni Stúdentum til ritgjördar, og heitid launum þeim er best tækist (samanber pag. 24); af 3 Stúdentum er létu sig i liósi

eptirlifandi náúngum sínum átti hann ei mikit upp at inna; Í Íslands latínu- og vid Kaupmannahafnar há-skóla þeckti hann, án efa, sér hafa verit mest veitt, til fyllíngar sinni lærdómslaungun, og þaraf fliótandi égin fullkomnun; fáar, en gódar bækur, sem máttu heita aleigan, skiptar eda seldar til handa mörgum útörfum, drógu þeim ecki, en i einu lagi lagdar til landsins skóla kunnu þær i lángann tima, eptir giafarann framlidinn, þéna kénnendum og lærisveinum til leidarvísis og upplýsingar, einkum i þeirri

---

med þessa ritraun, vard einn rækr, annar, (hvöred þó 2 árum ádur hafdi nád præmiu fyrir ritgjörd i mælíngarfrædi), feck *accessit*, en Therkelsen vann launin. Urskurdr vidkomandi Professóra um ritid var svo látandi: "*Tertium opusculum, hoc instructum symbolo: κυλίω κἀγὼ τὸν πίθον, ὡς μὴ μόνος ἀργεῖν δοκοίην ἐν τοσούτοις ἐργαζομένοις, omnes, quæ in tali specimine adesse debent virtutes felicissime conjungit, cum non solum tractatio universa maturitatem ingenii haud vulgarem, dictioqve solidam latinitatis peritiam testetur, sed totus qvoqve disqvisitionis tenor commentatorem prodat, qvi ipsos fontes adire svetus, veterum fidem rite æstimare calleat; qviqve recentiora ad literas antiqvas præsidia sic consulere sciat, ut sui tamen semper sit judicii. Huic itaqve præmium adjudicare non dubitamus.*"

mentagrein, eptir hvörri hann af alhuga hafdi lagt sig, og med hvörri einlæglega ásett sér, ef lengra lífs og heilsú hefdi audit ordit, at efla álit og heillir landsmanna sinna, svo vel innan sem útan lands. Þótt hann væri uppalinn vid þreyngsli og þrautir, lét hann svoleidis eingu at sídur i liósi lángsýna, kjærleiksfulla manns art, og beid med stödugu þolgiædi síns vidskilnadar, er skédi, sem ádur er sagt, seinasta dag Juliimánadar 1805.

Þannin er stuttlega sagt frá æfi-byriun, — framgángi, og — lokum eins manns, hvörn sannarlega má reikna medal íslendskra merkismanna; dæmi til at nockr lærdómspilltr hafi átt jafnördugt uppdráttar, sem hann, munu traudliga finnast; þeim mentunar og lærdóms fullkomlegleikum nádi hann samt á stuttum tíma, er áunnu hönum mesta hrós, er vöktu hiartanligustu óskir, og yndælustu vonir vísinda elskara, sem til hans þecktu, at hann yrdi einn í tölu þeirra, sem lengi fá at lifa sinni fósturjördu, Danmerkur ríki, og Nordurlöndum til styrktar, eptirlætis og ágiætis. Þeynkia mátti, at hann hefdi átt

ördugann úngdóm, til þess, at hann gjæti med ánægiu og siálfsdád því meira unnid til almennings heilla, í frýari manndómi, og loks liúflega tekit heidurlegri elli; — en — á 51ta aldursári hafdi hann útrunnit lífsskeidit! á fullordins- og elli- árin reyndi ecki; án þess þau kiæmu yfir hann, eptirlét hann ödrum lífs dæmi lærdómsríkt, og sína minníng góda; hvörs bída var, þótt hér hefdi lengur lifat, er mönnum hulit; gud einn veit hvad oss er fyrir bestu! med skáldsins ordum vil eg þarfyrir enda þessa íhugunarverdu æfi sögu:

Forsiónar leid er leynd,
líkams því fiötrum hád,
mannlig ei grípr greind
guds hulit vísdóms rád;
en nær vid ástefnt mid,
andstreymis linnir slód,
hún fyrst sér,
at himins er,
öll skickun einka gód.

